Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Ert þú áskrifandi að viku-blaði verkafólks?

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

5. tölublað | Þriðjudagur 30. janúar 1979 | 8. árgangur | verð kr. 100.-

# OPINBERIR STARFSMENN: Fylgist með því hvað stjórn BSRB er að gera



Á myndinni má þekkja marga helstu framámenn Alþýðubandalagsins. Þeir hafa nú á stuttum tíma lagt að baki sér hverja kjaraskerðinguna á fætur annarri. Kauplækkanir, skattahækkanir og önnur svikin loforð eru nú orðin daglegt brauð úr hendi þessara stéttasamvinnumanna.

Stjórn og samninganefnd BSRB hefur komist að samkomulagi við ríkisstjórnina um að fella niður 3% kauphækkunina 1. apríl nk. gegn "alm. félagslegum réttindum". Samkomulagið er háð samþykki opinberra starfsmanna í allsherjaratkvæðagreiðslu. Sú atkvæðagreiðsla fer ekki fram fyrr en ljóst verður hvað ríkisstjórnin gerir varðandi vísitölubætur 1. mars nk.

Allt bendir til þess að Alþýðubandalagið ætli að nota þetta samkomulag sem svipu á hina stjórnarflokkana til að koma sínum málum fram. Í þessu nýtur AB stuðnings forystu BSRB.

Samkomulagið er í þrem hlutum. Í fyrsta lagi er kveðið á um tvennskonar breytingar á lögum um opinbera starfsmenn sem "ríkisstjórnin mun beita sér fyrir".

Breytingarnar eru þær að fellt verði niður úr lögum ákvæði um lágmarksgildistíma kjarasamninga opinberra starfsmanna, þ.e. 2 ár. Hin breytingin er sú að BSRB annist alla samningsgerð BSRB manna aðalkjarasamning og sérkjarasamninga enda verði Kjaranefnd lögð niður.

Annar hluti samkomulagsins kveður á um að BSRB samþykki afnám 3% kauphækkunar sem á að koma til framkvæmda 1. apríl.

Þriðji hlutinn er síðan um það að samþykktin sé af hálfu BSRB háð samþykki allsherjar atkvæðagreiðslu.

## Aukin miðstýring BSRB.

Samkvæmt núgildandi lögum eru sérkjarasamningar í höndum aðildarfélaga BSRB með Kjaranefnd sem úrskurðaraðila ef ekki næst samkomulag. Ef ofanskráð breyting verður samþykkt hefur það í för með sér að allir sérkjarasamningar verða í höndum samningarnefndar BSRB. Það þýðir að samningsréttur félaganna verður afnuminn og færður í hendur samninganefndar og stjórnar BSRB. Þetta yrði þess vegna skref aftur á bak frá fullum samningsrétti, sem er hin eina rétta krafa BSRB. Hún hefur hins vegar verið lögð til hliðar af forystu BSRB samkvæmt ósk frá ríkisstjórninni.

framhald á síðu 2

# Fundur í Sókn

## Aðalheiður viðurkennir ójafnrétti í launamálum

Fundur var haldinn í starfsmannafélaginu Sókn þ. 25. jan. s.l. Var þetta merkilegur fundur einkum vegna þess að hann sýndi ljóslega hversu ólýðræðið er mikið og einnig einræði Aðalheiðar

Fundarefni var uppsögn samninga og kjaramálin. Mæting var góð og hiti í fólki. Í byrjun fundarins var samþykkt einróma að segja upp samningum. Aðalheiður bar upp kaupkröfur stjórnarinnar sem hún hafði samið í samráði við tvo "vana" ASÍ toppa. Áður en Aðalheiður las upp kröfurnar sagði hún að við myndum ekki fara í verkfall fyrir lítið. Undir lestrinum þurfti hver sem festa vildi tölurnar niður á blað að hafa sig allan við, því ekki fengum við kröfurnar fjölritaðar svo við gætum kynnt okkur kröfurnar ýtarlega.

Lítum nú á tölurnar.

| | |
|---|---|
| Byrjunarlaun | 168.815 |
| Eftir 6 mán. | 175.636 |
| Eftir 1 ár | 182.681 |
| Eftir 3 ár | 189.936 |
| Eftir 4 ár | 200.985 |
| Eftir 5 ár | 207.934 |

Aðalheiður vildi meina að kröfur þessar taki mið af kaupi vaktmanna í BSRB. En byrjunarlaun nú hjá þeim eru 172.867.

Eftir að hafa þulið upp kröfurnar gaf hún orðið laust. Ein manneskja kom upp og talaði. Að því loknu skellti Aðalheiður á atkvæðagreiðslu, án þess að nokkur gæti áttað sig á um hvað verið var að greiða atkvæði. Kom fát á marga og þar á meðal stúlku eina sem truflaði fundinn vegna þess að henni fannst ekki tímabært að greiða atkvæði um kröfur sem enginn hafði kynnt sér og stuðluðu jafnframt ekki að launajafnrétti sem er aðalhitamál starfsmanna í Sókn.

Eftir að stúlkan hafði lokið máli sínu ber mönnum ekki saman um hvað næst gerðist. Vilja sumir meina að þá hafi Aðalheiður nefnt töluna þrjá sem átti að vera mótatkvæðin að kaupkröfunni. Aðrir halda því fram að aldrei hafi verið beðið um mótatkvæði. Ekki er því öruggt að kaupkröfurnar hafi verið samþykktar þó Aðalheiður segi svo vera.

Það næsta markverða var að bera átti upp til atkvæða tillögur stjórnarinnar um samninganefnd. Þótti Aðalheiði yfirgnæfandi meirihluti með tillögunum og fannst óþarft að telja. Þegar fundarmenn kröfðust talningar neitaði frúin. A.m.k. þrír báðu um orðið en fengu ekki að koma upp. Við svo búið vildi stór hluti fundarmanna ekki una og gekk út. Á meðan hópurinn var að tínast út var lesin fundargerð síðasta fundar en vegna óróa í salnum fór lesturinn fram hjá mörgum. Var fundi síðan slitið.

framhald á síðu 2.

# Kamputseaher skipuleggur skæruhernað

Þvert á spár vestrænna fréttastofa þá verst her kamputsea enn. Það kemur á óvart þeim sem ekkert hafa heyrt frá landinu annað en "afrek ógnarstjórnar" Pol Pots eins og það heitir.

Þess vegna sýnir andstaðan í Kamputseu að stjórn Pol Pots stóð fyrir allt annað en ógnarstjórn.

Almennt er álitið að byltingarher stjórnar Pol Pots hafi tekið upp skæruhernað í harðri baráttu gegn víetnamska innrásarhernum.

Nálægt Battambang hurfu nokkrar hersveitir kamputseuhers. Þær birtust síðan að baki víglínu óvinarins nokkru síðar og gerðu þar óvæntar árásir.

Fréttum ber saman um það að herinn hafi sett upp aðalstöðvar sínar í fjallahéraðinu Kardamom í suðvesturhluta landsins.

Bardagar standa einnig yfir austan Metangfljótsins og eru mjög harðir þar. Einnig er barist nærri höfuðborginni Phnom Penh.

Í norðausturhluta landsins, þar sem landamæri Kamputseu og Víetnams liggja, hefur Víetnömum ekki heldur tekist að tryggja stöðu sína. Fréttir berast af bardögum frá og í raun geta víetnamar aðeins gætt þess svæðis sem hægt er að komast um á skriðdrekum. Með þessu verður erfiðara fyrir víetnama að koma vistum og vopnum til hersins sem berst lengra inn í landinu. Enda er ljóst að her kamputsea hefur reiknað dæmið á þann veg.

Það er því víst að þrátt fyrir lofthernað víetnama á Kamputseu, þar sem þeir beita aðferðum sem bandaríkjamenn beittu gegn þeim, þá getur Víetnam ekki haldist á landinu til lengdar.

Þá skortir allan stuðning innanlands og leppstjórn þeirra nýtur ekki trausts. Varaforsætisráðherra kamputsea lýsti því meira að segja yfir að foringi leppstjórnarinnar Henry Samran, væri ekki kunnur maður, því á móti það þekkti hann enginn.

Meðan hernaðarlegir örðugleikar víetnama aukast undirbúa kamputseumenn her sinn til að gera árás þegar skæruhernaðurinn að baki víglínunnar hefur sýnt árangur.



Sovétríkin standa að baki innrás víetnama í Kamputseu.

LEIÐARI

# ÍRAN: Barátta gegn risaveldunum

Atburðirnir í Íran hafa að vonum vakið mikla athygli. Þar hefur myndast sterk, víðtæk og róttæk hreyfing gegn keisaraveldinu og bandarískum áhrifum. Brottför keisarans hefur án efa verið hugsuð þannig að hún lægði öldurnar. Svo varð þó ekki.

Greinilegt er að þessi íranska hreyfing stefnir að því að Íran verði sjálfstætt ríki, óháð risaveldunum. Bandaríkjunum og Sovétríkjunum. En bæði þessi ríki hafa einmitt mikil ítök í landinu sem þau vilja auka.

Íran hefur löngum verið háð Bandaríkjunum en eins og alls staðar þar sem bandaríska heimsvaldastefnan stendur höllum fæti reyna sovésku heimsvaldasinnarnir að AUKA sín áhrif að sama skapi.

Barátta írönsku alþýðunnar hefur beinst gegn keisarastjórninni sem hefur einmitt verið talsmaður bandarísku áhrifanna í landinu. Má í því sambandi minna á að CIA stjórnaði valdaráninu sem kom keisaranum aftur til valda á sínum tíma. Auk þess má vitna til nýlegra ummæla hins landflótta keisara þar sem hann ásakar Carter Bandaríkjaforseta um að hafa "svikið Íran". Hættan sem nú steðjar að Íran kemur ekki aðeins frá Bandaríkjunum heldur líka frá Sovétríkjunum.

Ítök og áhrif sovétmanna hafa aukist jafnt og þétt. Um 4000 sovéskir tæknimenn starfa í Íran, þar af 1000 við stáliðjuver í Isfahan. Sovétmenn hafa nefnilega veitt Íran "efnahagsaðstoð" sem íranir greiða fyrir með olíu. Þessa olíu kaupa sovétmenn ódýrt og selja comecon-löndunum dýrt. Auk þess kaupa sovétmenn geysilega mikið af annarri framleiðslu írana, t.d. 65% af öllum blý-og sinkútflutningi Írans.

Sovétmenn hafa einnig undanfarið reynt að smeygja útsendurum sínum inn í andstöðuhreyfinguna í Íran, til að berjast þar gegn andstæðingum Sovétríkjanna. Fjöldi KGB njósnara er þar á meðal. Auk þess hafa sovétmenn dregið saman her á landamærum ríkjanna.

Það má ljóst vera að baráttunni lauk ekki með brottför keisarans. Stjórn Baktiars er ekkert annað en nokkurs konar framlenging keisarastjórnarinnar enda hefur henni ekki tekist að lægja öldurnar fremur en keisaranum sjálfum.

Herinn hefur síðustu daga látið talsvert að sér kveða. Vel gæti svo farið að reynt yrði að láta herinn grípa völdin og freista þess að brjóta andstöðuhreyfinguna á bak aftur með ofbeldi. Hins ber að gæta í því sambandi að svipaður andi virðist kominn upp í íranska hernum eins og var í Portúgal við fall fasistastjórnarinnar og óvíst hvort herinn yfirleitt lætur skipa sér að ráðast gegn samlöndum sínum.

Til að bæta enn á óvissuna um gang mála í Íran má benda á að óvíst er um hvernig andstöðuhreyfingin er sett saman. Fylgismenn Kúmenis eru taldir meirihluti samkvæmt vestrænni pressu. Það er hins vegar ekki víst. Hreyfingin var sameinuð um það markmið eitt að koma keisarastjórninni frá völdum. Þegar því marki hefur endanlega verið náð, með afsögn Baktiars, kemur samsetning andstöðunnar í ljós.

Marxískir-lenínískir flokkar og samtök eru mörg til í Íran. Afl þeirra er háð því hvort þeim tekst að sameina krafta sína til að vinna bug á fylgismönnum Kómenís en skoðanir hans sverja sig í ætt við fasisma, þótt óvíst sé um afstöðu hans til risaveldanna.

Eins og málin standa nú virðist ekkert afl í Íran vera þess megnugt að taka völdin og halda þeim. Og að stjórn og stjórnarandstaða vegi jafnt eins og er. Njósnarar og útsendarar risaveldanna vinna hins vegar að því ötullega að styrkja stöðu sína meðal írana, innan Írans og utan.

Barátta íranskrar alþýðu er ekki aðeins barátta gegn óréttlátu stjórnarfari heima fyrir heldur einnig barátta gegn risaveldunum.

Það sker úr um raunverulegt sjálfstæði landsins hvort tekst að rífa landið úr klóm risaveldanna.

29/1 1979

# OPINBERIR STARFSMENN: Fylgist með því hvað stjórn BSRB er að gera

framhald af forsíðu

Ástæða alls þessa er einmitt sú að ríkisstjórnin vill þessa 3% hækkun feiga til að koma í veg fyrir að ASÍ krefjist samskonar hækkunar. Þarna er verið að bjarga ríkisstjórninni og samkomulagi hennar við ASÍ um framlengingu samninganna.

### "Almennar félagslegar umbætur."

Það er ekki aðeins um það að ræða að þetta skerði völd aðildarfélaganna heldur er í þessu fólgin önnur hætta.

Fram til þessa hefur verkalýðshreyfingin mótmælt kjaraskerðingu og því að gengið sé á gerða samninga. Nú bregður hins vegar öðru vísi við: Forysta stéttarfélags vill samþykkja að gengið sé á gerða samninga gegn "almennum félagslegum réttindum".

Þetta er stórhættulegt fordæmi sem gefur ríkisstjórninni færi á að stunda þetta, að svíkja samninga gegn "almennum félagslegum réttindum", sem í flestum tilfellum eru aðeins einskisverðir pappírar.

Forysta BSRB ætti að þekkja það best. "Umbæturnar" sem áttu að koma í stað 3 af 8% kaupráninu 1.des. eru enn þá "hugmyndir og tillögur". En þær hafa ekki einu sinni verið ræddar. Efndirnar á loforðunum um skattalækkanirnar þekkja allir.

Það á að vera grundvallarregla hvers stéttarfélags að samþykkja aldrei að gengið sé á gerða samninga.

### Stjórnar AB kjarabaráttu BSRB.

Helstu rök stuðningsmanna þessa samkomulags eru þau að 3% kauphækkunin fyrsta apríl verði hvort eð er látin hverfa þannig að eins gott sé að samþykkja hana afnumda og fá þá "eitthvað" í staðinn.

Því er til að svara að betra er að láta reyna á hvort þessi ríkisstjórn svíkur samninga eins og hin fyrri eða hvort hún þorir það ekki nema með samþykki flokksmanna sinna í forystu stéttarfélaganna. Það er einmitt þetta sem AB og stuðningsmenn þess vilja ekki að komi í ljós.

Þvert á móti hefur AB nú síðustu vikur reynt að gera sig "málsvara" fullra vísitölubóta, nokkuð sem AB taldi hættulegt 1.desember s.l..

Forysta BSRB skipti um skoðun á nákvæmlega sama hátt.

### Leið baráttunnar.

Opinberir starfsmenn verða að velja leið baráttunnar. Á þann veg einan getum við komið í veg fyrir að ríkisstjórnin velji leiðina fyrir okkur.

Krafa dagsins hlýtur að vera að samningar séu virtir og að fullar vísitölubætur séu greiddar á öll laun.

Þegar samningar eru lausir 1. júlí er tímabært að setja á oddinn kröfuna um fullan samningsrétt, þ.e. að aðildarfélög BSRB fái verkfallsrétt um sérkröfur sínar og BSRB sjái um aðalkjarasamning.

Það er ljóst að þessum kröfum verður að afla fylgis innan BSRB. Ýmsir og þar á meðal leiðandi menn í BSRB eru andsnúnir fullum samningsrétti opinberra starfsmanna.

Til að ná þessu marki þarf að auka virkni aðildarfélaga BSRB. Mörg félög hafa nú þegar mótmælt samningsmakki forystu BSRB við ríkisstjórnina. Fleiri verða að fylgja í kjölfarið.



Aðalheiður Bjarnfreðsdóttir, formaður Sóknar

# Aðalheiður viðurkennir...

framhald af forsíðu

Með fundi þessum hefur Aðalheiður hundsað kröfur hins almenna félaga í Sókn um fullt launajafnrétti og önnur réttindi sem karlmenn sem eru í BSRB og vinna sömu störf hafa.

Ekki var alveg farið að fundarsköpum. Því þegar meiri hluti fundarmanna krefst talningar á að sjálfsögðu að láta að vilja þeirra. Einnig er ósvífið að neita mönnum um orðið. Svona er nú lýðræðið.

Athyglisvert er að Aðalheiður býður okkur upp á fund 1. febrúar þar sem við fáum tækifæri til að kynna okkur kröfurnar og bera þær saman við BSRB eftir að búið er að greiða atkvæði um þær.

### TYRKLAND.......

framhald af síðu 3

morð.

Formaður Verkamanna- og bændaflokksins Dogu Pericek, sagði, sagði meðal annars: "Þessi árás var skipulögð fyrirfram. Héraðsstjórinn og lögreglustjórinn voru margoft aðvaraðir um yfirvofandi árás MHP en þeir tóku ekki mark á því. Slík viðbrögð stöðva ekki stjórnleysi og hryðjuverk. Eina færa leiðin er að ráðast af festu gegn morðingjunum og þeim sem standa bak við þá."

### Markmið MHP: Fasískt alræði.

Það er ljóst að þessir atburðir voru prófraun á styrk fasísku aflanna í MHP og fasísku skæruliðasamtökunum.

Markmiðið er að afnema lýðræði og þingræði í landinu og koma á fót fasísku alræði. Atburðirnir sýna líka að fasísku öflin eru einangruð frá fjöldanum og ná ekki markmiðum sínum á annan hátt.

Í þessari aðstöðu er nauðsynlegt að ríkisstjórnin banni og uppræti starfsemi MHP og fasísku skæruliðasamtakanna.

Stuðningur við lýðræðislegu öflin í Tyrklandi er nauðsynlegur til að varðveita þau þingræðið. Þingræði í Tyrklandi er nauðsynlegum liður í varðveislu þingræðis í Evrópu gegn fasisma.

### FRUMVARP UM HÚSALEIGU

framhald af baksíðu.

Leigjendasamtökin eru nú með það til umfjöllunar og munu brátt skila áliti sínu.

Ætlunin er að halda opinn fund um þessi lög um miðjan mars n.k.

Skrifstofa Leigjendasamtakanna er að Bókhlöðustíg 7 og er opin milli kl. 13:00 og 17:00 síminn er 27609.



ALLIR ÞURFA ÞAK YFIR HÖFUÐIÐ

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl.16:00 - 18:30.

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

# Ærslaleikur um nýstárlegar baráttuaðgerðir

"Ég vinn aldrei með grínið grínsins vegna; alvaran er sífellt í bakgrunni. Ég set beitu á öngulinn, síðan er það áhorfendanna að bíta á agnið. Þannig á leikhús að vera; gríni og alvöru teflt fram hlið við hlið, en fyrst og síðast á leikhús að vera skemmtilegt."

Þetta segir Dario Fo, höfundur leikritsins Við borgum ekki; Við borgum ekki sem sunnandeild Alþýðuleikhússins sýnir nú við mikla hrifningu. Dario Fo kallar verk sín grófa ærslaleiki fremur en gamanleiki.

Í þessu leikriti tekst Dario Fo að sameina snilldarlega bráðfyndinn ærslaleik og vægðarlausa þjóðfélagsgagnrýni. Sú gagnrýni er þó engan vegin bölsýn, svo sem einkennir verk margra vinstri sinnaðra rithöfunda, heldur bendir Dario Fo þvert á móti á að leið sé til lausnar á vandamálinu og sú leið geti aðeins verið leið sósíalismans.

Við borgum ekki; byggir á raunverulegum atburðum er áttu sér stað í stéttabaráttunni á Ítalíu fyrir u.þ.b. 5 árum, sem var bein afleiðing þeirrar kreppu er skall á í landinu. Verðlag steig upp úr öllu valdi en kaupið stóð í stað, atvinnuleysi jókst og sums staðar var gripið til þess ráðs að stytta vinnuvikuna niður í þrjá daga. Verksmiðjurnar sátu uppi með miklar birgðir af óseldum vörum og því hefði hefðbundið verkfall aðeins komið sér vel fyrir atvinnurekendur. Verkafólkið greip til nýstárlegra aðgerða; það ákvað sjálft verðlagninguna og borgaði aðeins það sem því fannst sanngjarnt fyrir vöru og þjónustu. Þessar aðgerðir breiddust út og áður en yfir lauk náðu þær til allra iðnaðarhéraðanna á Norður-Ítalíu.

Sú skoðun hefur heyrst að efni leikritsins höfði ekki til íslenskrar alþýðu og eigi sér ekki samsvörun í íslensku þjóðlífi nema sá þáttur er fjallar um verðbólguna. Við nánari athugun kemur þó í ljós að svo er ekki.

Í leikritinu kemur fram hörð gagnrýni á Kommúnistaflokkinn sem á sinn þátt í öllu svínaríinu. Flokkurinn er orðinn þátttakandi í þessu rangláta kerfi, hann samþykkir lög til hagsbóta fyrir embættismenn ríkisins, hann skiptir sér ekkert af hagsmunum verkafólksins - í stuttu máli: Kommúnistaflokkurinn vinnur ekki lengur að hagsmunamálum verkalýðsins. Kannski kemur þessi gagnrýni skýrast fram í því að Giovanni (leikinn af Kjartani Ragnarssyni) er gerður að einföldum og "heiðarlegum" verkamanni, sem er fyrirmunað að brjóta lög og reglur þjóðfélagsins. Giovanni er jafnframt eindreginn stuðningsmaður Kommúnistaflokksins. Kringumstæðurnar neyða hann þó um síðir til að taka afstöðu gegn flokknum og með aðgerðum alþýðunnar.

Það þarf varla að kafa mjög djúpt í hlutina til að sjá hliðstæðu við ítalska kommúnistaflokkinn hér á landi. Eða hver sér ekki fyrir sér þann stjórnmálaflokk íslenskan, er kennir sig við verkalýðshreyfinguna en á nú aðild að ríkisstjórn sem framkvæmir kjaraskerðingar? Fleiri dæmi mætti tína til en hér látum við staðar numið.

En hver er grunntónn þessa leikverks? Það er álit höfundar þessara pistla að hann sé þessi: Til þess að leysa eitthvert þjóðfélagsvandamál og mynda baráttuhreyfingu sem getur fengið einhverju áorkað til hagsbóta fyrir vinnandi alþýðu, verði frumkvæðið að koma frá fólkinu sjálfu. Eða svo vitnað sé í Dario Fo sjálfan: "Mesta ógæfa nokkurrar manneskju er að vera ómeðvituð."

Dufþakur

---

Rauðar Örvar

VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Gullkorn úr leiðara síðasta Verkalýðsblaðs, málgagns EIKml:

Í samþykkt miðstjórnarfundarins, sem nú er til umræðu meðal allra félaga EIK(m-l) segir m.a.:

"Samtökunum gengur of hægt við að uppfylla skilyrði um fjöldatengslin fyrir flokksstofnun. Önnur skilyrði eru í lagi. Stefnan í höfuðatriðum nothæf, starfshættir og skipulag sömuleiðis. Sameining marx-lenínista í höfuðatriðum lokið og einangrun "KFÍ/ML" eykst stöðugt.

Má því ljóst vera, að ákvörðun okkar um stofnun kommúnistaflokksins fyrir 1980 er í verulegri hættu"

Er ekki að finna einhverja mótsögn í þessum ummælum?

---

## Heimshorna á milli



Hópur fasista tekinn höndum eftir fjöldamorðin í borginni Kahramanmaras.

# Fasistar í Tyrklandi myrða 500 manns

Hálfgerð borgarastyrjöld var í Kahramanmars (í Suðaustur Tyrklandi), í des. s.l.. Um 500 manns voru drepnir af félögum úr "Þjóðlega aðgerðaflokknum", MHP, og skæruliðasamtökum fasista sem berjast gegn tyrkneska þingræðinu.

Þann 22. des. voru tveir kennarar myrtir í borginni Kahramanmaras í samnefndu héraði. Þeir voru félagar í Verkamanna-og bændaflokki Tyrklands. Morðingjarnir voru þrír, allir úr fasistaflokknum MHP. Þeir voru nemendur í skólanum þar sem kennararnir störfuðu. Morðin voru framin rétt eftir sprengjuárás á kvikmyndahús sem sýndi fasíska bíómynd. Kommúnistum hafði verið kennt um sprenginguna.

### Ráðist á göngu syrgjendanna.

Ganga var farin þann 23. til minningar um kennarana. Þátttakendur voru yfir 15.000. MHP félagar réðust á gönguna með 50 grímuklædda menn í broddi fylkingar. Þeir voru vopnaðir vélbyssum og skutu á göngufólkið. Þátttakendur í göngunni flýðu, flestir til þeirra hverfa sem þeir bjuggu í. Þá réðust vopnaðar sveitir fasista inn í hverfin og settu eld í húsin. Síðan réðust þær inn í hús og myrtu íbúana með vélbyssum og hnífum.

Tvö hverfi borgarinnar voru lögð í rúst. Í einu hverfanna vörðust íbúarnir með vopnum undir leiðsögn Verkamanna- og bændaflokksins.

Lögregla og sveitir úr hernum fylgdust með atburðunum en aðhöfðust ekkert.

### Um 500 manns myrtir.

Innanríkisráðherrann Irfan Ozaydinli, kom á staðinn en var lokaður inni í ráðhúsbyggingu ásamt um 500 manns.

Vegna áætlunar fasistanna um að ráðast á húsið var gerð árás á fasistana. Talið er að í þessum bardaga hafi um 500 manns látið lífið.

### Skipulögð hryðjuverk.

Allt bendir til þess að aðgerðirnar hafi verið skipulagðar af MHP og fasísku skæruliðasamtökunum og að tilgangurinn hafi verið að reyna kraf . Markmið fasistanna er að steypa þingræðisstjórn Ecevits og koma á fasísku hernaðaralræði.

Blaðamenn sem þarna voru benda á að glæpamennirnir hafi gengið skipulega til verks og hlýtt skipunum hinna grímuklæddu.

Tíu dögum fyrir atburðina höfðu 10.000 félagar og stuðningsmenn MHP komið til borgarinnar. Þeir voru auðþekktir á slagorðunum: Niður með kommúnista og Lifi tyrkir og múslamir. Aðgerðunum var stjórnað af MHPþingmanni frá borginni, Yusuf Ozbay.

### Steypið Ecevit.

Þingmaður AP, Réttlætisflokksins, Faik Turun, áður hershöfðingi og einn leiðtoga fasisku skæruliðasamtakanna, sagði fáum dögum fyrir þessa atburði á blaðamannafundi í Adana: "Við komum til með að steypa stjórn Ecevits fyrir áramót."

Meðal lýðræðislegu aflanna var eining í mati á þessum atburðum. Koruturk forseti sagði: "Þetta er borgarastyrjöld". Ecevit forsætisráðherra sagði hægrimenn og andstæðinga lýðræðis og þingræðis bera ábyrgð á atburðunum sem hann líkti við fjölda

framhald á síðu.2

---

## Heimshorna á milli

# Sovétríkin olíuinnflutningsríki?

Dagblöð í Kuwait, Egyptalandi og Saudi-Arabíu hafa nýlega fjallað um sovésk afskipti og útþenslustefnu í Mið-austurlöndum. Markmið sovétmanna þar er að komast í olíulindirnar á svæðinu.

Blað í Kuwait, Al Rai Amni, segir í leiðara að ýmislegt bendi til þess að Sovétríkin muni verða að flytja inn olíu eftir 1980. Þess vegna hafi þau fullan hug á olíulindum Írans.

Við þetta má bæta að sovétmenn róa undir öllum árum í Íran. Ekki svo að skilja að þeir stjórni baráttunni þar heldur nota þeir þá aðferð að koma sínum fulltrúum inn í félög og fjöldahreyfingar þar. Það er vitað að fjöldi KGB manna (sovéska leynilögreglan) hefur verið sendur til Írans þeirra erinda.

Dagblað í Saudi-Arabíu, Al Medina, benti á að sovésk afskipti af málum ríkja í Mið-austurlöndum hefði það markmið að tryggja Sovétríkjunum olíuna þar. Blaðið benti á að þau reyni að festa sig í sessi á sjóleiðum sem liggja um hin olíuauðugu svæði Mið-austurlanda.

Al Ahram í Kairo benti á að atburðirnir í Íran gætu opnað sovétmönnum leiðina vestur um Asíu. Fyrsta fótfesta þeirra var Angóla sem hefur gert þeim kleift að færa áhrifasvæði sitt til landanna umhverfis Rauðahafið.

Það er öllum ljóst að sovétmenn sækja allsstaðar á þar sem bandaríska heimsvaldastefnan hopar. Sovétríkin eru hungrað risaveldi, svelt af áhrifasvæðum en Bandaríkin eru satt heimsvaldaríki sem hefur aðeins áhuga á óbreyttu ástandi vegna þess að það þýðir áframhaldandi áhrif þeirra.

Þess vegna segjum við að Sovétríkin séu hættulegra risaveldi fyrir heimsfriðinn.

Undir engum kringumstæðum getur þetta þó komið í veg fyrir baráttu gegn NATO.


Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!
Stéttabaráttan

Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
5.tbl. 8.árg. 30.1. 1979

STÉTTABARÁTTAN -kemur út vikulega- Sími: 27810. Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



# Völd fjölþjóðabanka hérlendis

Eins og komið hefur fram í fréttum skuldar ríkissjóður Seðlabanka Íslands 26,4 milljarða króna. Síðan skuldar Seðlabankinn fjölþjóðabönkum offjár erlendis.

Þegar um slíkar stórskuldir er að ræða kemur upp spurning um það hver sé raunverulegur valdaaðili í þjóðfélaginu og hvort Seðlabankinn ráði ekki beint og óbeint mun meiru um ákvarðanir Alþingis en ríkisstjórnin um áhrifavald Seðlabankans. Og svo hvort Seðlabankinn sé ekki sökum skulda sinna erlendis háður ákvarðanatöku erlendra fjármálamanna s.s. forráðamanna Alþjóðagjaldeyrissjóðsins (IMF).

Undanfarin ár hafa komið til landsins útsendarar Alþjóðagjaldeyrissjóðsins. Tilgangur þeirra hefur verið sá að hafa áhrif á gang efnahagsmála hérlendis. Þeir ræða við háttsetta s[...]nmálamenn og valdamikla [...]málamenn í þeim tilgangi að koma ár sinni sem best fyrir borð í landinu.

Sem dæmi um áhrif sjóðsins hér má nefna að hann er raunverulega valdamesti aðili Landsvirkjunar þó svo eigi að heita að Reykjavíkurborg og ríkið eigi stofnunina, 50% hvor.

Rétt áður en ríkisstjórnin tók ákvörðun sína um að skerða laun samkvæmt gerðum samningum 1.des. s.l. höfðu verið hérlendis fulltrúar gjaldeyrissjóðsins. Þeir lögðu fram við ísl. ráðamenn tillögur sínar um aðgerðir í efnahags-og kjaramálum á Íslandi. M.a. töluðu þeir við Svavar Gestsson viðskiptaráðherra.

Tillögur Alþjóðagjaldeyrissjóðsins hafa ekki birst opinberlega, svo ekki er hægt að bera þær saman við aðgerðir ríkisstjórnarinnar 1.des. s.l. og sjá hvort þar eru tengsl á milli. Þ.e. hvort tillögur hinna erlendu fjárplógsmanna höfðu einhver áhrif á ákvarðanatöku Alþingis.

Viðskiptaráðherrann lofaði því í útvarpsþættinum Beinni línu, að hann skyldi gera allt sem í hans valdi stæði til þess að tillögurnar yrðu birtar. Enn hefur hann ekki staðið við loforð sitt eða það skyldi þó aldrei vera að hann hafi ekki vald til að láta birta tillögur þeirra.






Frá útifundi BSRB og ASÍ á Lækjartorgi fyrri dag verkfallsins sem haldið var 1. og 2. mars sl. Þá mótmælti fjöldi launafólks því að samningsréttur þeirra skyldi að engu gerður með lagaboði.

# Samningunum í gildi - vex fylgi

Þegar verkalýðshreyfingin sameinaðist um allt land til baráttu gegn kjararánslögum ríkisvaldsins og fyrir kröfunni um samningana í gildi, studdu Einingarsamtök kommúnista (EIKml) ein launþegaflokka gegn baráttunni. Gengu félagar samtakanna sumir það langt að vinna í tveggja daga allsherjarverkfallinu sem skall á í mótmælaskyni 1. og 2. mars s.l..

Þá varaði Kommúnistaflokkurinn EIKml við þessari röngu og skaðlegu pólitísku stefnu samtakanna. Hann benti á að baráttan fyrir samningunum í gildi væri pólitísk barátta til varnar samningsrétti launafólks. Árásir á samningsréttinn táknuðu skert lýðréttindi. Þessi barátta hefði því ekki einungis mikilvægt gildi sem fagleg barátta heldur sérstaklega sem pólitísk. Kommúnistaflokkurinn benti einnig á það að uppkeypt verkalýðsforystan sem þá stóð fyrir baráttunni um samningana í gildi, myndi svíkja. Einnig Alþýðubandalagið og Alþýðuflokkurinn.

Jafnhliða því að taka fullan þátt í baráttunni benti Kommúnistaflokkurinn á að þeir kjarasamningar sem verið væri að verja væru langt frá því að launafólk gæti lifað af 40 stunda vinnuviku. Og þeir samningar væru gerðir með makki verkalýðsforystunnar við atvinnurekendur.

Kjarakrafa EIKml á þessum tíma var og er enn "100 þús. kr. mánaðarlaun samkvæmt vísitölu framfærslukostnaðar 1.des. 1976".

EIKml hafa nú að hluta til gert upp við fagfélagsstefnu (ökonomisma) sína með því að hafa nú tekið upp baráttu fyrir samningunum í gildi og viðurkenna að "afstaða samtakanna á sínum tíma hafi verið röng og skaðleg" Vbl. 2. tbl. 23. jan. -6. feb. 1979.

En EIKml hefur þó ekki enn tekið upp baráttu fyrir lífvænlegum launum fyrir 40 stunda vinnuviku né skilja mikilvægi baráttunnar fyrir lýðræði innan verkalýðshreyfingarinnar.

Kommúnistaflokkurinn fagnar afstöðubreytingu EIKml og býður samtökin velkomin til baráttunnar gegn afskiptum ríkisvaldsins af kjarasamningum.

# Námstarf á vegum Kommúnistaflokksins

Nú er að hefjast nýr námshringur á vegum Kommúnistaflokksins. Í hringnum verða lesin og rædd helstu grundvallarrit marxismans-lenínismans, t.d. Kommúnistaávarpið, kaflar úr hagfræði eftir Marx, úr "Ríki og bylting" eftir Lenín, "Díalektísk og söguleg efnishyggja" eftir Stalín og einnig stutt ritgerð eftir Mao Tse-tung. Eins og sést á þessu er farið í frumkvöðlana og markmið námshringsins er fyrst og fremst að gefa innsýn í kenningar þeirra og hvernig þeim er og verður beitt í starfi.

Fundirnir eru vikulega, sá fyrsti í næstu viku. Þeir sem hafa áhuga á að taka þátt eru beðnir að hafa samband við bókabúðina Rauðu Stjörnuna, Lindargötu 15, sími 27810, opið virka daga milli kl 16:00 og 18:00.



# Frumvarp um húsaleigu

Í síðustu Stéttabaráttu var minnst á drög að lögum um húsaleigu lægju nú fyrir. Nauðsynlegt er að leigjendur sýni hug sinn til þessara laga nú meðan þau eru í myndun, ekki má búast við of miklu af hinum háttvirtu alþingismönnum. Leigjendur geta ekki treyst á neitt nema sinn eigin samtakamátt. Með samtakamættinum verður að sýna það afl sem liggur á bak við þær réttlætiskröfur sem tryggja þarf í lögum. Einnig þarf að tryggja að lögin verði meira en pappírsplagg.

Hér á eftir birtist hluti af frumvarpsdrögunum. Þar er fjallað um samningsgerðina.

4. gr.

Leigumála um húsnæði skal gera skriflegan.

Félagsmálaráðuneytið skal láta gera sérstök eyðublöð fyrir leigumála um íbúðarhúsnæði.* Eyðublöðin skulu liggja frammi, almenningi til afnota, á skrifstofum sveitarfélaga, hjá samtökum leigutaka og leigusala, og annars staðar þar sem ástæða þykir til.

Ráðuneytið getur ákveðið hæfilegt endurgjald fyrir eyðublöðin sem dreifingaraðila er skylt að innheimta.

8. gr.

Leigutaki íbúðarhúsnæðis samkvæmt tímabundnum leigusamningi skal að leigutíma loknum hafa forleigurétt að hinu leigða húsnæði. Leigumálinn framlengist þá í jafn langan tíma og hinn upphaflegi samningur gilti, en þó ekki lengur en í eitt ár hverju sinni Leigusali getur þó valið milli þess hvort gerður skuli nýr tímabundinn samningur eða hinn tímabundni samningur breytist í ótímabundinn samning, sem lýtur almennum regl um laga þessara m.a. um upp sögn. Skilmálar framlengds leigumála skulu vera hinir sömu og í hinum upphaflega leigumála að öðru leyti, m.a. um fjárhæð húsaleigu, nema að því leyti sem leiðir af leyfi legum breytingum á húsaleigunni samkvæmt samningi aðila eða lögum.

Líta skal á upphaflega umsaminn leigutíma og framlenging hans skv. forleigurétti sem samfelldan leigutíma og meta réttindi og skyldur leigusala og leigutaka eftir því m. a. að því er lýtur að fyrirframgreiðslu skv. 2 mgr. 51. gr.

Forleigurétturinn fellur niður ef leigusali lætur íbúðarhúsnæðið í té til afnota til a. m.k. eins árs, skyldmenni í beinni línu, kjörbörnum eða fósturbörnum og systkynum sínum og börnum þeirra, eða tekur húsnæðið til afnota fyrir sjálfan sig. Sama gildir ef leigusali selur hið leigða húsnæði.

Forleiguréttur leigutaka skv. 1. mgr. gildir ekki ef hið leigða íbúðarhúsnæði er í sama húsi og leigusali býr í sjálfur.

Eins og sjá má er ýmislegt að athuga við þetta frumvarp.

framhald á síðu 2.